Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

32. tölublað | Þriðjudaginn 20. september. | 6. árgangur. | Verð kr. 60.



# Sýndarleikur frystihúsaeigenda



Dittað að flökunnarsal Meitilssins, á þeim tima þegar verkakonunum var fyrirmunað að vinna.

Meitillinn í Grindavík hefur auglýst eftir verkafólki. Frystihúsið, sem staðið hafði í fjárfestingum upp á hundruð milljóna, sagði eins og kunnugt er upp öllu starfsfólki vegna þess að "ekki hefur tekist að kría út lán fyrir frekari launagreiðslum" eins og það hét á máli SÍS forkólfanna. "Óvænt" opnun Meitilsins sannaði hins vegar það sem Stéttabaráttan hefur haldið fram, að lokun frystihúsanna á Suðurlandi er ekki til komin vegna lélegrar afkomu húsanna, heldur er þetta liður í þeirri stefnu borgarastéttarinnar og ríkisvalds hennar að skerða enn frekar kjör alls launafólks. Það sem þó hefur vakið mestu reiðina og um leið furðu almennings er sú lítilsvirðing sem þessi frystihús sýna starfsfólkinu er þau senda fyrst fyrirvaralaus uppsagnarbréf, en segja fólkinu um leið að ráða sig ekki annars staðar í vinnu, heldur hlýða kalli eigenda frystihúsanna er það berst.

Flest frystihúsanna sem lokuðu nú í haust hafa hafið starfsemi á ný (t.d. Sjöstjarnan en önnur (s.s. BÚH) Bæjarútgerð Hafnarfjarðar) þurfa lengri tíma til að fela sinn raungróða í kostnaðarsömum breytingum á húsunum og vélakostinum. Þegar forstjóraliðið í Bæjarútgerð Hafnarfjarðar rak verkafólkið létu þeir hafa eftir sér að vonandi tækist þeim að opna aftur innan sex vikna eða svo. Þessi fróma ósk virðist hafa dugað krataklíkunni í stjórn Hlífar því þaðan hefur ekkert heyrst - ekki einu sinni fróm ósk um að forstjórunum takist að hraða breytingunum sem mest. Væri Hlíf dugandi verkalýðsfélag, er lyti stjórn vinnandi verkamanna hefði félagið ugglaust gripið til harðra mótaðgerða. Forstjóraliðið hefur undirbúið breytingarnar með mestu leynd svo mánuðum skiptir. Sá tími sem loks er valinn er eingöngu með hag bæjarútgerðarinnar fyrir augum. Togararnir geta siglt á meðan og fiskverð er oftast hæst á haustin. Forstjóraliðið hefur ekki síst haft í huga þegar tíminn var valinn og þessi leynd viðhöfð, að verri tími finnst vart fyrir fólkið (að hávetrinum einum undanskildum). Stór hluti verkafólksins nýkominn úr sumarleyfum og mjög erfitt fyrir það að fá vinnu annars staðar, en til þess mega forstjórarnir ekki hugsa. Dugandi verkalýðsfélag hefði neytt bæjarútgerðina til að greiða starfsfólkinu laun meðan á breytingunum stóð.

Verkalýðsfélagið í Hveragerði og Þorlákshöfn mótmælti réttilega vinnubrögðum SÍS-stjórnar Meitilsins. Það hvatti fastráðið verkafólk til að snúa ekki til vinnu fyrr en fyrirtækið hefði haft samband við hvern og einn persónulega og beðið hann um að koma aftur. Full ástæða hefði þó verið til að ganga enn lengra til að skapa samstöðu meðal verkafólksins á staðnum. Vegna þess hve lág laun eru greidd í frystihúsunum er mikill skortur á starfsfólki til fiskvinnslu og er sjálfsagt fyrir verkalýðshreyfinguna að nýta slíkar aðstæður til að knýja fram bætt kjör.

Einstök verkalýðsfélög standa hinsvegar illa þegar heildarsamtökin (ASÍ) svíkjast algjörlega undan merkjum. Loðnar yfirlýsingar forystumanna ASÍ um að kjörin verði varin, en algjört aðgerðaleysi gegn árásum auðvaldsins hefur enn einu sinni afhjúpað svik forystuklíkunnar við málstað verkafólksins.

# Styrkjum Kommúnistaflokk Íslands



Á Íslandi eins og í öðrum auðvaldsríkjum eru margir pólitískir flokkar og samtök sem ætla sér að leysa þjóðfélagsvandamálin. Þeir flokkar sem mynda ríkisstjórn auðmannsins Geirs Hallgrímssonar eru algerlega undir stjórn stóratvinnurekenda og auðmanna. Auðhringurinn SÍS sem drottnar yfir bændum og arðrænir verkafólk, ræður Framsókn, en stórfyrirtæki eins og Flugleiðir, Sölumiðstöð Hraðfrystihúsanna og Eimskip ráða ferðinni í Sjálfstæðisflokknum. Þessir flokkar gæta hagsmuna auðmannanna og munu því aldrei gera neinar þær þjóðfélagsbreytingar sem skerða þeirra hag til að auka þjóðfélagslegt réttlæti vinnandi fólks, Samt. sem áður styður stór hluti verkalýðsstéttarinnar og annarrar alþýðu þessa flokka gróðasjúkra auðmanna sem við eigum í stöðugri baráttu við um kaup og kjör. Nýjasta dæmið er lokun frystihúsanna, sem hafði þær afleiðingar að hundruðum okkar er fyrirmunað að afla sér lífsbjargar. Fáir menn, auðmennirnir í SH og SÍS taka þessar ákvarðanir og þeir segja okkur hafa of mikið kaup þrátt fyrir að það sé helmingi lægra en í Noregi fyrir sömu vinnu. Þetta er su auðklíka sem ræður Sjálfstæðisflokknum og Framsóknarflokknum og gerðum ríkisstjórnarinnar. Með því að styðja eða kjósa þessa flokka gengur verkafólk algerlega í blóra við hagsmuni sína, það styður auðvaldið gegn stétt sinni og sjálfu sér.

Flokkarnir á vinstri kantinum eru margir og margklofnir. Orsakanna er að leita í afstöðu þessarra flokka til auðvaldsins og stefnu verkalýðshreyfingarinnar gegn því. Þeir sem tala máli auðvaldsins vilja einskorða verkafólk við endurbætur á auðvaldsskipulaginu í stað þess að leggja það að velli og byggja þess í stað þjóðfélag sameignarframleiðslunnar eins og við þekkjum í Kína. Alþýðuflokkurinn sem er elsti verkalýðsflokkurinn varð hækja auðvaldsskipulagsins fyrir áratugum þegar auðmenn keyptu upp forystulið hans til að taka afstöðu gegn hagsmunum verkafólk, hvort heldur sem var í kaupgjaldsbaráttunni eða byltingarbaráttunni. Í dag er málgagnið Alþýðublaðið gefið út af íhaldinu og inn í flokkinn safnast pólitískir ævintýramenn sem reyna að tryggja sér bitlinga og frama. Í raun og veru, er Alþýðubandalagið alls ekki frábrugðið Alþýðuflokknum eins og það hefur afhjúpast fyrir verkafólki, heldur er það að taka við því hentistefnuhlutverki sem Alþýðuflokkurinn gegndi um áratugi innan verkalýðshreyfingarinnar. Þessi þróun byrjaði strax í Sósíalistaflokknum, forvera Alþýðubandalagsins. Þá var gefið leyfi til að forystumenn flokksins á þingi og í verkalýðshreyfingunni mættu hirða allar þær tekjur sem þeir fengu vegna starfa fyrir flokk sinn, í stað þess að vera á verkamannakaupi eins og allur fjöldinn sem studdi þá til forystu. Þannig einangruðust þessir menn frá alþýðunni í lifnaðarháttum og urðu ofar almennum félagsmönnum í flokki sínum. Þessi bitlingalýður vill ekki róttækar þjóðfélagsbreytingar af þeirri einföldu ástæðu að þeir hafa það

framhald á síðu 2.

# Prjónakonur stofna samtök



Að undanförnu hefur verið í undirbúningi stofnun samtaka prjónakvenna. Undirbúningsfundur var haldinn í Reykjavík í síðustu viku. Á fundinum mættu 115 prjónakonur og einn karlmaður og skráðu sig allir í félagið. Þá mætti Arnmundur Backmann, lögfræðingur, á fundinn og mun hann starfa með félaginu. Konurnar voru mættar víða að og var mikill hugur í fundarmönnum. Ekki hefur verið ákveðið endanlega hvert form félagsskapurinn mun taka. Þegar er þó hafinn undirbúningur að myndun félaga prjónakvenna út um allt land, er stæðu saman að sölu og hefðu t.d. einn fulltrúa fyrir sig. Þá gætu þær líka sent eina manneskju fyrir sig með vöruna í stað þess að fara ein og ein um langan veg og vera svo ef til vill gerð brottræk með vöruna. En tilgangur félagsins er ekki aðeins að vera til hagræðingar fyrir prjónakonur, heldur fyrst og fremst að fá fram verulega hækkun á handunnum prjónavörum. Stofnun samtaka prjónakvenna er orðið löngu brýnt verkefni og nú er mikilvægt að standa vel og rösklega að, því víst er að vörukaupendur eru þegar farnir að hugsa sér til hreyfings. Nokkrar konur eru á óformlegum samningum við fyrirtæki í prjónaútflutningi, þannig að í þær er hringt ef ákveðnar vörur vantar mest. Gefur þetta þeim nokkuð stöðugari atvinnu en flestum hinna. Hafa þessar konur hingað til verið nokkuð tregari gagnvart félaginu. En þær munu brátt sjá að félagið verður hagur allra prjónakvenna, því allar eru þær ofurseldar sama lága verðinu, sama ótrygga atvinnuástandinu, ef kaupendum þóknast að fá "söluörðugleika erlendis" til að lækka verðið heima fyrir eða hækka það erlendis. Þar sem prjónakonur eru ekki ráðnir starfsmenn, njóta þær heldur ekki neinna sjúkra - eða atvinnuleysistrygginga, eða annarra réttinda verkafólks. Stéttabaráttan hvetur lesendur til að styðja samtök prjónakvenna og vinna strax að stofnun félaga, en bíða ekki eftir skipun að "sunnan". Sérstaklega hvetjum við starfsfólk í ullarverksmiðjum til að fylgjast vel með gangi mála og veita prjónakonum liðsinni ef reynt verður að brjóta baráttu þeirra á bak aftur.

Prjónakonur. Talið ykkur saman og hafið svo samband við einhvern undirritaðra:
Hulda Gísladóttir, (99)1967
Inga Einarsdóttir, 38878
Elín Sigmarsdóttir, 44926
Erna Brynjólfsdóttir, 52323
Elín Pétursdóttir, 84241
Dóra Mýrdal, 40908.

**Mætum öll á Þing herstöðvaandstæðinga 15. og 16. okt.**

LEIÐARI

# Verkalýðshreyfingin

Það er ævinlega þannig að eftir því sem kjör og afkoma verkalýðsins eru skert meir, með verðbólgu og öðrum afarkostum, leiðir það til aukinnar andstöðu og bætts skipulags innan verkalýðshreyfingarinnar. Þetta er sú reynsla sem við getum meðal annars dregið af kjarabaráttunni fyrir síðustu samninga. Ný form og nýjar baráttuaðferðir voru vissulega reyndar, sérstaklega vegna mikillar gagnrýni á í fyrsta lagi ólýðræðislegt form samningagerðarinnar og í öðru lagi á þær baráttuaðferðir sem þá hafði um nokkurn tíma verið notast við, allsherjarverkföllin. Sú reynsla sem þarna fékkst er mjög mikilvæg fyrir framhald baráttunnar. Það verður erfiðara fyrir þá verkalýðsforingja sem þá reyndu að sitja á tveimur stólum, að gera það í næstu samningum. Í þessu sambandi fékkst líka önnur reynsla, sem er ekki síður mikilvæg, en það er baráttan gegn þeim foringjum í verkalýðshreyfingunni sem tilbúnir voru til að svíkja baráttuna við fyrsta og besta tækifæri. Baráttan gegn þessu fólki bar þó ekki sýnilegan árangur nema þar sem baráttan var sérlega hörð í litlu félögunum. Í þessu sambandi er rétt að benda á baráttuna innan ASB (afgreiðslustúlkur í brauða- og mjólkurbúðum), sem varð til þess að meirihluti félagsmanna hafnaði leiðsögn gömlu forystunnar, en tók þess í stað upp róttæka baráttu fyrir réttindum sínum. Þó svo að ekki hafi tekist að vinna sigur í þessari baráttu þá hafa aðgerðir og skelegg barátta ASB orðið öðrum hvatning til að taka málin í eigin hendur hvenær sem þurfa þykir. Félag starfsfólks í veitingahúsum er annað dæmi um þetta. Nokkuð skyld þessu er barátta þeirra sem stundað hafa prjónaskap um árabil og eru nú að stofna með sér verkalýðsfélag. Það er kunnara en frá þurfi að segja hversu ótrúlegum afarkostum prjónakonur hafa orðið að sæta í viðskiptum sínum við þá sem selt hafa framleiðslu þeirra. Sú skipan mála að þessi prjónaskapur er nánast eingöngu heimilisiðnaður, hefur orðið til þess að þeir sem stunda hann eru mjög einangraðir hver frá öðrum. Hver fyrir sig gerir þetta fólk samning við einhverja verslun eða útflytjanda, sem vegna aðstöðu sinnar ræður einn verðinu. Það hefur oft verið bent á það að það er samstaðan sem sigrar og ef prjónakonur gerðu allar í einu samninga við kaupmenn þá gætu þeir ekki beitt sömu þvingunum eins og hægt hefur verið að beita hvern einstakan. Nú hafa prjónakonur og raunar er þar líka um karlmenn að ræða, komist að þeirri niðurstöðu að við óbreytt ástand verði ekki unað. Nú þegar hefur verið haldinn einn fundur og stofnun samtakanna í fullum gangi. Þannig hefur þeim afarkostum sem prjónakonur hafa orðið að sæta verið svarað með stofnun félags til að stjórna sameiginlegri baráttu. Annars vegar eru það framleiðendurnir sem hafa ekkert annað að selja en vinnuafl sitt, en hins vegar eru það þeir sem ráða yfir auði og mörkuðum. Vegna þeirar sérstöðu sem prjónakonur hafa er félagsleg skipulagning þeirra mjög stutt á veg komin og því hafa kaupmenn og aðrir getað skammtað þeim jafn lítið og raun ber vitni. Það mætti bera þetta saman við sum verkalýðsfélög sem ekki er stjórnað með hagsmuni verkafólksins fyrir augum, heldur atvinnurekenda. Prjónakonur eru að stofna sitt félag, en aðrir verða að vinna sín félög úr höndum uppkeyptrar og svikular forystu. Þó að þetta sé barátta gegn sameiginlegum óvini þá tekur hún oft á sig margskonar form, sem oft á tíðum virðast ekki fara saman, en gera það samt.

framhald af forsíðu

STYRKJUM KFÍ....

gott. Þegar persónulegir hagsmunir þeirra hafa verið í veði, hafa þeir ekki hikað við að kljúfa þá flokka sem þeir hafa verið í, við þekkjum dæmin um Hannibal, Björn Jónsson, Karvel Pálmason og Magnús Torfa sem allir voru í Alþýðubandalaginu. Meistari Þórbergur lýsir vel í eftirfarandi tilvitnun í Sálminn um blómið sem kom út árið 1955, hvernig hentistefnan hefur sigrað algjörlega innan Sósíalistaflokksins þegar hann lætur sögupersónuna segja: "Kommarnir ætluðu einu sinni að taka peninga ríku mannanna og gefa fátæka fólkinu þá. En þeir eru fyrir löngu hættir við það. En Morgunblaðið er svo lítið skynsamt, að það skilur þetta ekki."

Hér áður fyrr á kreppuárunum átti íslensk verkalýðshreyfing sér Kommúnistaflokk sem var brjóstfylking gegn auðvaldinu í hagsmunabaráttunni og baráttunni fyrir afnámi auðvaldsskipulagsins. Hentistefnan lagði þann flokk að velli . Í dag er hinn ungi Kommúnistaflokkur Íslands að taka upp þráðinn að nýju. Verkafólk sem man tímana tvenna heldur því gjarnan fram að við munum svíkja eins og allir hinir flokkarnir. En það má ekki koma til, við höfum næga reynslu til að byggja á og vera okkur víti til varnaðar. Hentistefnan má ekki sigra, það verða flokksfélagarnir að tryggja með stöðugri gagnrýni og sjálfsgagnrýni. Verkamenn, ef við eigum að áorka einhverjum breytingum um okkar hag í baráttunni við auðvaldið verðum við að styrkja Kommúnistaflokkinn og útbreiða vikublaðið Stéttabaráttuna.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud. 15-18,30

● Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti 23.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.

● Hornafjörður: Skúli Walforff. Silfurbraut 2.

● Ísafjörður: Kristinn Karlsson. Fjarðarstræti 7.

● Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum 38.

● Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi.

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.

● Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v. 444 Börglumvej 2, 8240 Risskiv.

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 3A:218. 222 46 Lund.

framhald af baksíðu

# Hugleiðingar um kjarnorku

orkunni sem slíkri, meðan það er skilyrðislaust rétt að berjast gegn gálausri og háskalegri meðferð jafnhættulegs orkugjafa. Það er í samræmi við hagsmuni fjöldans að berjast gegn byggingu kjarnavera nálægt þéttbýli , svo lengi sem fullnægjandi aðferðir við eyðingu úrgangs og varnir gegn skaðlegum áhrifum orkuframleiðslunnar á umhverfið eru ekki til.

### Andstaðan fer vaxandi um allan heim

Um allan heiminn hefur almenningur snúist harkalega gegn gálausri notkun kjarnorkunnar. Fyrir áratug voru vísindamenn og nokkrir "sérvitrir" friðarsinnar andsnúnir kjarnorkuverum. Nú hafa þeir sameinast herskárri hreyfingum sem sjá meinið ekki í kjarnorkunni sjálfri, heldur í notkun kapítalsins á gereyðingarvopnum og kjarnorku. Breið fjöldahreyfing er að myndast í allflestum löndum V-Evrópu og raunar einnig í sumum ríkjum þriðja heimsins. Það má minna á svissnesku anti-atóm hreyfinguna sem lokaði nýbyggðu kjarnaveri í fyrra og vék ekki fyrr en fjölmennt lögreglulið, vopnað kylfum og táragasi, neyddi þá til undanhalds. Í ár stóð þessi hreyfing fyrir 10 þúsund manna samkomu til að mótmæla aukinni notkun kjarnorkunnar. Í Bonn reis heil "borg" andstæðinga kjarnavers sem þar er verið að taka í notkun. Í nágrenni Grenoble barðist lögregla og her við yfir 100 þúsund mótmælendur og nú nýlega gengust andstæðingar kjarnavera á Norðurlöndum fyrir 15 þúsund manna mótmælagöngu til hins nýreista Barsebäck kjarnavers í Svíþjóð. Öll þessi kjarnaver eru í seilingarfjarlægð frá milljónaborgum og alvarlegt óhapp, eða tilræði gegn slíku orkuveri, mundi hafa óhugnanlegar afleiðingar fyrir íbúanna.

### Kjarnorka á Íslandi

Vegna fámennis og hinna mörgu óbeisluðu orkugjafa Íslands, hefur spurningin um notkun kjarnorkunnar ekki verið á vörum manna. Við höfum víst nóg með þá samviskulausu fjárglæframenn sem standa að Kröflu-ævintýrinu þótt frömuðir kjarnorkunnar áreiti okkur ekki líka. Hitt er svo annað mál, að íslensk alþýða horfir svefndrukknum augum á ólöglegt og glæpsamlegt framferði bandaríska NATO hersins á Keflavíkurflugvelli, án þess að blikna eða blána. Þótt henni berist vitneskja um að kjarnorkuvopn séu geymd á vellinum sýnir hún engin viðbrögð. Þótt henni sé kunnugt um þá hættu sem af þessu stafar er hún reiðubúin til þess að leggja trúnað á orð ósvífinna stríðaglæpamanna, frekar en á þær raddir sem tala gegn ógnum styrjaldarinnar og kjarnorkunnar. Það er mál til komið að herða róðurinn gegn veru hersins á Íslandi og öllum þeim ósóma sem veru hans fylgir. Ef kjarnorkuvopn eru geymd á Íslandi, sem ég tel með öllu víst, þá hverfa þau ekki héðan fyrr en eigendur þeirra - bandarísku heimsvaldasinnarnir kalla nauðugir svipudrengi sína heim. Baráttan gegn kjarnorkunni er verkefni Samtaka Herstöðvaandstæðinga, verkefni sem tvinnast óhjákvæmilega þeirri mikilvægu baráttu sem tugir þúsunda íslendinga heyja gegn viðbjóði bandarísku hersetunnar á Íslandi.

Mörsugur

# Leiðrétting

Fréttin um að forstjóri orkuvers í Svíþjóð hafi framið morð á blaðamönnum, sem birtist í tbl. nr. 29 hefur skv. ábendingu lesanda reynst rakalaus og biðst ritstjórn hér með afsökunar á þessum leiðu mistökum.

framhald af baksíðu

FUNDUR UTANRÍKIS...

kúgaranna mjög harðlega og hvetur til efnahagslegra refsiaðgerða gegn þeim. Öll Norðurlöndin hafa verslunarviðskipti við S-Afríku eins og nú er ástatt og fyrsta skrefið í framkvæmd yfirlýsingarinnar hlýtur að vera alger slit efnahagslegra tengsla við S-Afrísku fasistanna. Það verður gaman að sjá hvort hr. Ágústsson, sem evrópskir stjórnmálamenn líta á sem einskonar Janus alþjóðastjórnmálanna, eftir að hann er búinn að gegna embætti sínu bæði fyrir "Ólafíu" sálugu og núverandi stjórn, hrindir hótunum sínum í framkvæmd. Líklega fellur honum þó allur ketill í eld í þessu efni sem öðrum, og eitthvað svipað verður uppi á teningnum með utanríkisráðherra hinna Norðurlandanna.

## ÚR BARÁTTUNNI

### LANGUR VINNUDAGUR

Yfirvinnubannið síðastliðið vor opnaði augu margra verkamanna fyrir því hvað það er að vinna eðlilegan vinnutíma. Vinnuþrældómurinn á verkafólki er mikill og reglan 8 tíma vinna, 8 tíma frí og 8 tíma svefn er sjaldnast haldin, enda er dagvinnukaupið svo lágt að það nægir tæplega fyrir fullu fæði í matsölu. Orsakanna fyrir hinum langa vinnudegi er að finna þar sem taumlaus gróðafíkn atvinnurekenda er og sú staðreynd að þeir hafa keypt og mútað gjörspilltri verkalýðsforystu ASÍ. Það er hægt að þræla okkur út myrkranna á milli, því forysta verkalýðshreyfingarinnar vill ekki berjast fyrir styttingu vinnudagsins og hærri dagvinnukaupi.

Í skipasmíðastöðinni Stálvík í Garðahreppi mynduðu verkamennirnir með sér samtök til að krefjast styttingar vinnudagsins og óskerts kaups af atvinnurekandanum. Það tókst, þannig að nú eru unnir 8 tímar í dagvinnu en greiddir aukalega 2 eftirvinnutímar án þess að þeir séu unnir. Þarna var það frumkvæði og samtakamáttur verkamannanna sem sigraði.

Verkalýðsforystan kom hér hvergi nærri, enda drattast hún yfirleitt á eftir allri baráttu verkafólksins.

Verkalýðsforystan vill ekki vera í sterkum tengslum við vinnandi fólk. Það mundi setja henni of mikil verkefni á herðar. Ef vilji er fyrir því hjá verkafólki að berjast fyrir lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnuviku liggur beinast við að endurnýja forystu verkalýðshreyfingarinnar, þannig að baráttufúsir verkamenn taki við af sofandi og gjörspilltum verkalýðspáfum. Verkafólk verður að ræða þessi mál vel og kveða niður allar úrtölur og volæðisvæl um að við getum ekki komið á 8 stunda vinnudegi sem borgaður er með lífvænlegum launum, eins og þekkist á hinum norðurlöndunum. Það er kominn tími til þess að verkalýðshreyfingin á Íslandi fari að rísa upp úr skítnum og berjast fyrir þeim réttindum sem verkamenn nágrannaþjóðanna hafa náð fram fyrir áratugum.

— ● —

### RAMMAGERÐIN

Ýmis fyrirtæki taka við prjónavörum. Er þar helst að nefna SÍS, Álafoss og Rammagerðina. Borga fyrirtækin oftast bæði í peningum og lopa. Rammagerðin hefur haft þann háttinn á að bjóða konunum bæði Gefjunar- og Álafosslopa, eftir vali. Hins vegar þegar konurnar koma með vöru sína, hefur Rammagerðin neitað að taka við öðru en vörum úr Álafosslopa. Er þetta enn eitt dæmi um hvernig fyrirtæki telja sig geta snúið konunum í kringum sig, haldið þeim niðri með ótta og sýnt þeim algjöra fyrirlitningu.

# Um stéttarþroska íslensks verkalýðs

Dufþakur

Það hefur verið fremur hljótt yfir verkalýðsmálum undanfarna mánuði. Stafar þetta að líkindum af því, að í síðustu samningum náðust ívið betri kjarabætur en oft áður, þó því fari fjarri að þær hafi verið viðunandi og örugglega á eftir að saxast æ meir á þessar kjarabætur eftir því sem lengra líður á samningstímabilið. Í annan stað má nefna, að skattarnir hafa ekki komið eins illa niður á verkafólki og í fyrra og atvinnurekendur og fjárglæframenn hafa þurft að bera örlítið þyngri byrðar en á síðasta ári. Umræður um ranglátt skattakerfi hafa því að mestu legið niðri í sumar.

Þó ber að sjálfsögðu að varast þá hugsun, að valdamenn þjóðfélagsins séu nú allt í einu að koma til móts við þá sem minna mega sín. Nú sjá þeir leik á borði - tvennar kosningar eru framundan, svo því kann að fara að þetta sé aðeins lognið á undan storminum.

Hér var þó ekki ætlunin að gera endilega þetta ládeyðutímabil að umtalsefni, heldur vekja aðeins máls á því, hver staða íslensks verkalýðs sé í samanburði við stéttarbræður hans í Evrópu. Sú spurning vaknar ósjálfrátt, hvort stéttarmeðvitund íslenskrar verkalýðsstéttar sé almennt á lægra stigi en hjá verkalýð annarra landa Evrópu. Sitthvað bendir til þess. Á Íslandi vinnur verkafólk yfirleitt lengri vinnudag en tíðkast annarsstaðar. Stafar þetta fyrst og fremst af því, að það er einfaldlega ekki hægt að lifa á dagvinnutekjunum einum saman, verkamanna fjölskyldur geta blátt áfram ekki framfleytt sér öðruvísi en með aukavinnu og enn meiri aukavinnu. En fleira kemur líka til; það þarf að safna sér fyrir eigin húsnæði, húsgögnum og síðast en ekki síst bifreið. Þessi afstaða er að mörgu leyti skiljanleg; það er betra að vera í eigin húsnæði heldur en vera ofurseldur húsaleiguokri og það er líka ótrygg framtíð að leigja og sumpart er bíll nauðsyn, sérstaklega í úthverfum eins og Breiðholti, þar sem samgöngum og allri þjónustu er mjög ábótavant.

Hin mikla aukavinna á því talsverða sök á hversu komið er pólitískri meðvitund hjá íslensku verkafólki. Frítíminn fer því að mestu í vinnu í stað þess að sinna ekki aðeins fjölskyldunni heldur líka félagslegum og pólitískum málefnum. Það er og mun verða eitt brýnasta hagsmunamál íslensks verkalýðs að berjast fyrir lífvænlegum launum fyrir dagvinnu. Þegar þeim áfanga hefur verið náð mun félagslegur og stéttarlegur þroski vafalaust eflast.

En er hinn svívirðilega langi vinnudagur höfuðorsökin? Ef við athugum nánar þróun og sögu verkalýðshreyfingarinnar undanfarna áratugi eða frá því stéttabaráttan reis hvað hæst á fjórða áratugnum, þegar íslenskur verkalýður var hvað mest sameinaður og baráttufúsastur, þá kemur annað í ljós. Um 1940 gerðist það, að stéttasamvinnuforkólfarnir náðu forystu í verkalýðsfélögunum og allar götur síðan hafa þeir æ betur búið svo um hnútana, að áhrifa hins almenna verkamanns gætir æ minna í ákvarðanatekt varðandi réttindamál sín. Stéttasamvinnustefnan er því meginþröskuldurinn á vegi aukins pólitísks og stéttarlegs þroska íslenskrar verkalýðsstéttar. Henni þarf að ryðja burt. En til þess að sameina og skipuleggja baráttu verkalýðsins gegn þessum fjandmanni þarf pólitíska forystu. Slík forysta getur aðeins verið kommúnískur flokkur með sósíalíska byltingu á stefnuskrá sinni. Íslenskir kommúnistar eiga enn langt í land með að teljast raunverulegt forystuafl verkalýðsstéttarinnar. En fyrst þyrftu þeir að sameinast innbyrðis.

Dufþakur.




ENGIN VIÐBRÖGÐ HJÁ RÍKISSAKSÓKNARA

Í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar var fjallað ítarlega um starfshætti öryggiseftirlitsins Þungar ákærur komu þar fram vegna frammistöðu þess þegar slys ber að höndum og þegar þörf er á að gera fyrirbyggjandi aðgerðir. Í vikunni birti Þjóðviljinn hluta greinarinnar úr Stb. en allt kemur fyrir ekki, ríkissaksóknari vill ekki ransókn. Svona er embættismannakerfið þegar þörf er á að rannsaka mál sem varða aðbúnað verkafólks. Við verðum að draga af þessu þá lærdóma að embætti ríkissaksóknara stendur með atvinnurekendum og þeirra vanhirðu í þessu mikilvæga máli. Eina sem við getum treyst á er samtakamáttur okkar á vinnustöðunum til að berjast gegn slysavöldum.

RAUÐUR VETTVANGUR frá lesendum

RAUÐUR VETTVANGUR frá lesendum

# Hvað merkir krafan „frelsi til náms"?

Að undanförnu hafa allmargir sett fram vígorðið frelsi til náms. Þetta nýja tískuvígorð er gjarnan skýrt út nánar, t.d. "frelsi til náms í þágu verkalýðsins" eða "svigrúm til gagnrýnins náms" osfrv. Í umræðunum um þetta vígorð, hafa næsta einkennilegar röksemdir verið settar fram. Sumir telja að með þessu vígorði sé verið að veita fasistum og afturhaldsmönnum sérstakt frelsi til náms, með því að setja fram þetta vígorð. Og einn vitringurinn telur að allt frelsi til náms verði afnumið í sósíalismanum og því sé rangt að krefjast slíks frelsis í dag.

Þessar umræður bera átakanlega vott um skort á hæfileika til að skoða málið á stéttarlegan hátt, sem þó er yfirlýstur í málsmeðferð höfundanna.

Frelsi er ekki til utan við þjóðfélagið og getur ekki haft neitt annað innihald en stéttarlegt. Frelsi hins borgaralega þjóðfélags er aðeins formlegt frelsi, frelsi sem er yfirlýst og jafnvel lögfest. En borgaralegs frelsis geta engir aðrir notið en þeir sem hafa efnahagslegar aðstæður til þess. Það er öllum frjálst að stunda háskólanám á Íslandi í dag, sem uppfylla sett skilyrði. En þetta frelsi er takmarkað á ótal vegu, fyrst og fremst efnahagslega fyrir verkalýð og vinnandi alþýðu. Efnalegt jafnrétti hlýtur að vera grundvöllur menningarlegs jafnréttis. Rétturinn til náms og frelsið til náms, kemur þeim einum að haldi , sem hafa efnahagslegar aðstæður til að stunda nám. Þannig er þessu varið með allt frelsi yfirleitt, sem til er í borgaralegu þjóðfélagi. Skoðanafrelsi, ritfrelsi og fundafrelsi eru öll stjórnarskrárbundin, en þeir einir sem tilheyra borgarastéttinni, eða styðja völd hennar, geta óhindrað notfært sér þetta frelsi. Þeim er opinn aðgangur að fjölmiðlum, þeir hafa ráð til útgáfustarfsemi og þeir eiga eða geta leigt bestu fundarsalina að vild. Hvernig er þessu þá varið með vígorðið "frelsi til náms"? Það er bara snyrtilegur, en algerlega innantómur frasi - svo lengi sem hann miðar ekki fyrst og fremst við efnahagslegt frelsi til náms.

Það er fullyrt að frelsi til náms verði afnumið í sósíalismanum. Álítur höfundur þessara orða, að núverandi "frelsi" sé eitthvað til að sjá eftir? Núverandi frelsi til náms og jafnvel það ýtrasta námsfrelsi sem borgarlegt þjóðfélag getur boðið upp á, verður alltaf frelsi borgarastéttarinnar og jafnframt frelsisskerðing verkalýðsins. Núverandi "frelsi" er frelsi auðvaldsins til að kúga verkalýðinn. Í kapitalismanum verður aldrei til neitt annað frelsi. Kapitalískt frelsi er byggt á forréttindum einstaklingsins á kostnað hins mikla meirihluta sem nýtur einskis frelsis.

Þetta "frelsi" verður vissulega afnumið í sósíalismanum. En í stað þess kemur raunverulegt frelsi, þar sem frelsi heildarinnar er skilyrðið fyrir frelsi einstaklingsins. Má vera að höfundi finnst það vera frelsisskerðing, að geta ekki látið nám sitt stjórnast af eiginþykkum duttlungum, en ef hann er sá verkalýðssinni sem hann gefur sig út fyrir að vera ætti hann að skilja að raunverulegt frelsi einstaklingsins getur aldrei orðið til, nema það þjóni jafnframt frelsi heildarinnar. Að segja að frelsi til náms verði afnumið í sósíalismanum, er að snúa hlutunum á hvolf. Því í sósíalismanum skapast fyrst möguleikarnir fyrir því, að námið verði sjálfsögð réttindi fjöldans, en ekki forréttindi fárra útvalinna. Í sósíalismanum fær verkalýðsstéttin loks möguleika til að þroska hæfileika sína og mennta sig í æðra námi. Þá loks fær vígorðið "frelsi til náms" framfarasinnað innihald, þegar það er skilið sem frelsi fjöldans til að mennta sig í þágu sósíalismans. Að halda því fram að þetta vígorð sé "verkalýðssinnað" í kapítalismanum, en "borgaralegt" í sósíalismanum sýnir mikið skilningsleysi. Sé vígorðinu "frelsi til náms" ætlað að vera "verkalýðssinnað" er ekki hægt að skilja það öðru vísi en sem baráttu fyrir efnahagslegu jafnrétti til náms í kapitalísku, jafnt sem sósíalísku þjóðfélagi. Að vísu verður framkvæmd þessa vígorðs aldrei í kapitalismanum og ekki fyrr en löngu eftir að sósíalisminn hefur komist á, en þrátt fyrir það er rétt að berjast fyrir því - sem efnahagslegu jafnrétti.

Að halda því fram að þetta þjóni fasismanum, er fáránlegt. Það vísar beinlínis til þess, að afturhaldsmenn hafi ekki "frelsi til náms" í dag, en fái það fyrst eftir að baráttan fyrir frelsinu er hafin! Mér skilst, að höfundar þessa slagorðs, eigi við allt annað en efnahagslegt jafnrétti til náms. Að þeir ýji að auknum forréttindum núverandi fámenns hóps, til þess að þeir geti hagað sínu námi óháð hagsmunum lýðsins og lengt það og breytt því eftir vild. Væntanlega eru þeir líka að fara fram á "háskólamarxisma" í kennslunni. Ég tel rétt að minnast orða Marx í því sambandi, því slík krafa er varhugaverð á vissan hátt. Marx sagði, að eftir að pólitíska hagfræðin var orðin háskólanámsgrein, hafi henni verið breytt í það aumkunarverða fyrirbrigði - viðskiptafræðina. Hið sama mun gerast með alla pólitíska menntun sem lögð verður í hendur borgaralegs háskóla, henni verður umsvifalaust breytt í borgaralega sósíologíu, hálfróttækan hrærigraut sem ruglar fólk frekar en skýrir málin.

Krafan um frelsi til náms er því aðeins verkalýðssinnuð, að með henni sé átt við efnahagslegt jafnrétti til náms. Ég get hins vegar ekki séð hverju hún bætir þá við kröfuna "jafnrétti til náms"? Að mínum dómi er hér aðeins um háleitan en merkingarlausan frasa að ræða.

# „Veljum íslenskt hagur okkar allra"

Um land allt og þó ekki síst á stór-Reykjavíkursvæðinu hanga nú uppi áróðursplaköt með ofanskráðum hvatningarorðum. Í öllum fjölmiðlum landsins glymur um þessar mundir þessi áróður íslensku borgarastéttarinnar, sem markvisst vinnur að því að læða inn hjá verkafólki að það lifi i sæluríki stéttlauss samfélags, þar sem hagsmunir "vinnuveitenda" og "vinnuþega" fari saman í einu og öllu. Þó markmið áróðursins sé ávallt það sama, þ.e. að slæva stéttmeðvitund íslensks verkalýðs þá tekur hann hinar margvíslegustu myndir. Allt frá launþegakökunni frægu og til "íslenskrar atvinnustefnu" og nú síðast "veljum íslenskt - hagur okkar allra".

Viðskiptajöfurinn og innflytjandinn Albert Guðmundsson hefur nú tekið að sér að stjórna þessari nýjustu áróðurs herferð iðnrekenda. Og eins og hans er vandi þá er ekki tvínónað við hlutina heldur öllu tjaldað sem til er. Þannig verður "almenningi" nú gefið tækifæri til að sjá sælt verkafólkið við iðju sína á nýmáluðum vinnustöðum sínum, já veljum íslenskt er hagur okkar allra. Og fleiri ráð verða notuð til að vekja athygli á gæðum íslensks iðnvarnings. Þar má nefn happdrætti og iðnsýningu þar sem fyrirhugað er að hafa sérstaka bása þar sem íslenskt iðnverkafólk situr með heimaiðju sína, útsaum, bókband, útskurð o.þ.h.

En kappið er orðið svo mikið í iðnrekendum við að troða áróðrinum í almenning að þeir eru farnir að prýða glæstan bílakost sinn með þessum slagorðum. Þegar svo hver Range Rover og Vagoneer jeppinn ekur framhjá biðskýlum S.V.R. með þennan áróður á hliðarrúðunum hvarflar óneitanlega að manni sú hugsun að sýnu réttara hefði verið fyrir iðnrekendur að hafa slagorðið... Það er í okkar þágu - að þið veljið íslenskt.

framhald af baksíðu

# Markmið síonista-

"hlutlaus" eins og margar yfirlýsingar Carter-stjórnarinnar gætu gefið til kynna. Þvert á móti styðja bandarísku heimsvaldasinnarnir fasistastjórnina í Ísrael fullkomlega. Án fjárhagsaðstoðar þeirra gætu síonistarnir ekki rekið útþenslustefnu sína. Ísrael er stærsti útgjaldaliður Bandaríkjanna í "aðstoð til annarra ríkja". Þær billjónir dollara sem þau veita Ísrael í hernaðar aðstoð árlega gera síonistum það kleift að halda Vesturbakkanum hernumdum. Sem dæmi um "hlutleysi" Bandaríkjanna í þessu máli má nefna að nú síðast fyrir rúmum mánuði síðan samþykkti Carter-stjórnin að láta Ísrael í té vopn að andvirði 250 millj. bandaríkjadala.

Þessar áætlanir ísraelsku síonistanna hafa sem fyrr segir mætt öflugri andstöðu palestínsku þjóðarinnar. Palestínumenn hafa lýst því yfir að barátta þeirra muni halda áfram, uns palestínska þjóðin hefur fengið fullt sjálfstæði og óskoraðan sjálfsákvörðunarrétt.

(Byggt á grein í "The Call".)

## Tónleikar

Kínversku listamennirnir sem komu hingað til lands fyrir skömmu, munu halda tónleika miðvikudaginn 21. sept. n.k. Þeir verða í samkomusal Menntaskólans við hamrahlíð, og hefjast klukkar 20. 30. Aðgangur er ókeypis og er öllum heimill aðgangur Stettabaráttan skorar á alla að mæta og missa ekki af þessu einstaka tækifæri.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
32. tbl. 6. árg. 20/9 1977.

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



*Fundur utanríkisráðherra Norðurlanda*

## Helsinkiandinn svífur yfir

Utanríkisráðherrar Norðurlandanna héldu með sér fund um heimsmálin í byrjun septembermánaðar, í Helsinki. Það er eins og München-andi Helsingforssáttmálans sé pólitísk umgjörð þessara gagnmerku umræðna um heimsmálin. Enda er langur vegur til hugmyndalegs og pólitísks sjálfstæðis Norðurlandanna gagnvart risaveldunum tveimur Þrjú eru fylgispök Bandaríkjunum og meðlimir NATO, Finnland er undir þrýstingi Sovétríkjanna og Svíþjóð hefur eftir megni reynt að viðhalda hefðbundnu sjálfstæði sínu, þótt svíar hafi margoft fengið að beygja sig fyrir vilja annars hvors risaveldisins í mikilvægum málum.

### Að líta það alvarlegum augum..

Ríkisstjórn Carters hefur lagt hart að sér í andlitsuppliftingu bandarísku heimsvaldastefnunnar. Hin feiknlega áróðursvél, sem sett var af stað í sjálfri kosningabaráttunni, hefur malað æ síðan og breytt afstöðu heimsins til USA í ýmsu. Nú gerist Carter persónulega verndarengill pólitískra andófsmanna í sovéskum gerveikrahælum, hann áminnir fasískar strengjabrúður sínar(.) eins og Jorge Vidéla foringja argentínsku herforingjaklíkunnar, föðurlega um að virða mannréttindin, hann setur fram "friðartillögur" fyrir Kóreudeiluna, Palestínudeiluna og Rhodesíu - allt í þágu heimsfriðarins og réttlætisins.
Er kyn þó gamlir íhaldsjálkar á Íslandi og danskir kratar, sem árum saman hafa setið ugglausir í kjöltu bandarísku frelsisgyðjunnar, hrökkvi nú illa við? Allt í einu eiga þeir að styðja ímynd sjálfs djöfulsins - palestínska hermdarverkamenn, rhódesíska kommúnista og kóreanska andfasista. Samþykktir Helsinkifundar utanríkisráðherranna dregur dám af jafnvægislist smáríkjanna. Í fullkomnu samræmi við anda Helsinkisamkomulagsins frá í fyrra, lætur fundurinn áhyggjur sínar í ljós yfir þeirri leiðu staðreynd, "að á vettvangi alþjóðamála, séu enn átakasvæði og spenna, sem valdi alvarlegum áhyggjum". Það er raunar aðalsmerki ráðalausra loddara, að "líta það alvarlegum augum" sem engin ráð eru til við, né skilningur á.

### Kaup og sala

Innbyrðis afstaða Norðurlandanna einkennist ekki af eindrægni eða samstöðu. Hún einkennist af kaupum og sölu. Og raunverulega er það ekki undarlegt, ef þess er gætt, að risaveldin gæta sinna hagsmuna í þessum heimshluta af fyllstu hörku, vegna hernaðarlegrar stöðu hans. Á hinn bóginn sitja lítilþægir skósveinar risaveldanna venjulegast í ráðastöðum Norðurlandanna.
Þegar rætt er um Miðausturlönd getur engin eindrægni ráðið. Þar kemur Helsinkiandinn til sögunnar. Í yfirlýsingu utanríkisráðherrafundarins segir: "að vinna land með ofbeldi er andstætt skoðunum okkar. Ísrael verður að láta af yfirráðum sínum yfir landsvæðum sem það hernam árið 1967". Fundurinn lagði áherslu á virðingu sína fyrir tilvist og sjálfstæði allra ríkja fyrir botni Miðjarðarhafs.
Danmörk sem ber ekki hina minnstu virðingu fyrir sjálfstæðisvilja og sjálfsákvörðunar rétti Grænlendinga eða Færeyinga, Noregur og Ísland sem opnað hafa bandarísku heimsvaldasinnunum aðgang að löndum sínum til að tryggja hernaðarlegt hálstak sitt á heiminum, Finnland sem þagði er herir Varsjárbandalangsins börðu sjálfstæða þróun tékka niður í blóði ´68 og loks Svíþjóð - kaupahéðinn dauðans í báðum heimsstyrjöldunum. Þessi ríki vilja nú leggja áherslu á "virðingu sína fyrir tilvist" Ísraels, þessa sníkjuríkis heimsvaldastefnunnar, sem er tilkomið með vopnuðu ofbeldi, viðhaldið og útvíkkað með hryllilegum ránsstyrjöldum og gengur sjálft fram fyrir skjöldu, hvenær sem hallað er á böðla fasismans og grimmdaræði hins svartasta afturhalds í víðri veröld. En af hugulsemi við Helsinkiandann, á Ísrael að skila hernumdu svæðunum frá 1967. En hvað um hernámið 1948? Eða 1956? Hvers vegna eru þau undanskilin. Það sækir að manni ógleði yfir lítilmennskunni í hálfkarraðri hugsun þessarar yfirlýsingar. Hið eina sem utanríkisráðherrar Norðurlanda kunna fyrir sér í utanríkismálum er að kaupa og selja, kaupa og selja.

### S-Afríka fordæmd

Það vekur athygli að fundurinn fordæmir apartheidkerfi S-Afrísku kynþátta-

framhald á síðu 2.





YASSER ARAFAT ( hægri) gefur sigurmerki á sama tíma og Palestínumenn halda afram vopnaðri andstöðu gegn árásarstefnu ísraelsku síonistanna.

*Ísrael:* **Markmið síonista-**

## innlimum hernumdu svæðin

Ísrelska stjórnin tilkynnti 14. ágúst s.l. að hún hyggðist auka "félagslega þjónustu" við araba á hernumdu svæðunum, Vesturbakkanum og Gasasvæðinu. Þessi tilkynning hefur mætt mikilli andstöðu Palestínumanna og annarra araba, sem hafa barist fyrir frelsun þessarra svæða allt frá því að Síonistarnir hernámu þau í sexdagastríðinu 1967. Þessi svæði voru áður undir stjórn Jórdaníu og Egyptalands.

Ísraelstjórn undir forystu Menachem Begim forsætisráðherra, fullyrðir að hún ætli sér að koma á aukinni heilbrigðisþjónustu, ókeypis menntun og bættum kjörum og vinnuaðstæðum fyrir arabana á hernumdu svæðunum. En það er augljóst að raunveruleg ætlun síonistanna er að reyna að draga hernumdu svæðin æ meira undir yfirráð ísraelsstjórnar í því skyni að innlima þau í Ísraelsríki. Jafnvel leiðtogum ísraelsstjórnar hefur reynst erfitt að fela þessa staðreynd. Eða eins og einn þeirra orðaði það: "Ákvörðunin er augljóst vitni þess að Ísrael ætlar sér að ráða yfir Vesturbakkanum og Gasasvæðinu til frambúðar." Áætlunin um aukna þjónustu við palestínuaraba á hernumdu svæðunum er því aðeins eitt skref ísraelsstjórnarinnar í þá átt að koma Vesturbakkanum og þeim 600 þúsund palestínumönnum sem þar búa undir sína stjórn.

Annað skýrt dæmi um útþenslustefnu síonistanna er stofnun hervæddra þorpa og samyrkjubúa sem ísraelsmenn hafa komið á fót á hernumdu svæðunum. Síðan 1967, þegar Ísrael hernam Vesturbakkan hafa verið byggð 45 slík þorp og samyrkjubú. Með þessum bækistöðvum hyggjast ísraelsmenn umkringja og einangra mannflestu arabasvæðin og brjóta þannig niður alla andspyrnu. Stjórn Begins áformar nú að láta reisa hundruðir slíkra bækistöðva á næstu árum.

Fastur liður í hernámspólitík síonistanna er gífurleg kúgun á palestínumönnum. Yfir 3000 palestínumenn sitja þar í fangelsum sakaðir um að vinna gegn ísraelsstjórn, og þúsundir hafa verið reknir burt af löndum sínum, teknir fastir og pyndaðir á margvíslegan hátt.

Þetta er sá raunveruleiki sem palestínsk alþýða býr við og er hann víðsfjarri þeim "umbótum" sem ísraelsstjórn þykist vilja koma á.

Útþenslustefna Ísraels hefur áhrif á nær alla þætti í lífi íbúanna á Vesturbakkanum. Atvinnuleysi er nú 50% meðal palestínuaraba og laun þeirra sem hafa vinnu eru einungis um 40% af launum ísraelskra verkamanna. Palestínumenn eru skattlagðir af ísraelsku stjórninni og þeim gert að lúta ísraelskum lögum. Efnahagsleg kúgun síonistanna á íbúum Vesturbakkans kemur einkar skýrt fram í þeirri þróun að Ísrael er nú aðalviðskiptaaðili Vesturbakkans auk þess sem Vesturbakkinn er annar stærsti útflutningsmarkaður Ísraels.

Síðustu tilburðir ísraelsstjórnar til að herða tök sín á Vesturbakkanum hafa mætt nokkurri gagnrýni af hálfu Bandaríkjastjórnar. Andstaða Jimmy Carters er þó einvörðungu liður í tilraunum hans til að koma saman friðarráðstefnu í Genf undir forystu risaveldanna. Því það er langt frá því að Bandaríkin geti talist

framhald á síðu 3.

# Stéttabaráttan

**Nú er septembermánuður hálfnaður og áskrifta og útbreiðsluherferðin er enn í fullum gangi.**

Við verðum að herða okkur í lausasölunni, hún hefur ekki aukist frá síðasta blaði eins og sést hér að neðan.

**Herferðinni lýkur um næstu mánaðarmót, þess vegna verðum við að herða okkur í áskriftasöfnuninni.**

Hamarinn mun sýna aukningu lausasölunnar, frá því sem nú er. Sigðin sýnir nýja áskrifendur blaðsins.

Félagar og aðrir velunnarar blaðsins skulu póstsenda nýjar áskriftir til :

Rauðu Stjörnunnar, Lindagötu 15. Rvk. Pósthólf 1357.
Einnig má hringja í síma 27810 milli klukkan 15 og 18 .




## Hugleiðingar um kjarnorku

Víða um heim hefur notkun kjarnorku færst í aukana á síðari árum. Það er einkum óttinn við olíuþurrðina og aukin völd OPEC ríkjanna gagnvart hinum "siðmenntaða heimi", sem rekur vesturveldin til skjótrar nýtingar kjarnorku til daglegra þarfa. En nýting kjarnorkunnar er ákaflega umdeild og vísindamenn eru alls ekki á eitt sáttir um hvað gera skuli. Til eru þeir sem telja alla umræðu óþarfa. og segja kjarnorkuna vera orkugjafa framtíðarinnar. En þeim fækkar og fleiri vísindamenn æskja annars konar orkugjafa, einkum af þrennum sökum. Í fyrsta lagi stafar hætta af geislavirkum úrgangi, en eyðing slíks úrgangs er bæði dýr og flókin. Í öðru lagi geta kjarnaver sprungið í loft upp. Mörg þeirra eru byggð í nágrenni þéttbýlla svæða og hafa í för með sér hryllilega hættu fyrir íbúa þessara svæða. Í þriðja lagi telja sumir vísindamenn að úraníum (sem er notað við myndun kjarnorku) muni þrjóta fyrr en olíubirgðir jarðar.

### Tvíþætt notkun kjarnorkunnar

Fyrir löngu hefur verið bent á að kjarnaver sem hafa yfirlýstan friðsamlegan tilgang, má hæglega nota í ófriðarskyni. Þannig hafa ýmis ríki, sem fengu vísindalega þekkingu og aðstoð frá vestrænum ríkjum til byggingar kjarnavera, notað þau til að smíða kjarnavopn. Ísrael, Egyptaland, Indland, Pakistan og nú síðast S-Afríka eru öll á listanum yfir þau lönd sem talið er að hafi yfir kjarna vopnum að ráða. En andstaðan við kjarnaver til friðsamlegra nota, verður aldrei rökstudd með þeim rökum að nota megi kjarnorkuna í ófriði. Þetta er eins og önnur vandamál, spurning um stéttir, spurning um yfirráð borgarastéttar eða verkalýðsstéttar yfir kjarnorkuverunum. Kjarnorkan er mikilvæg uppgötvun og án efa nauðsynleg í þjóðfélagi framtíðarinnar. Hins vegar hafa gróðafíknir kaítaliskir stjórnmálamenn, freistast til að leyfa starfsemi kjarnavera, löngu áður en fullnægjandi aðferðir til að bægja hugsanlegri hættu frá nærliggjandi byggð eru fyrir hendi. Öll vopn, öll þekking hefur tvennt eðli - eftir því hvaða stétt hún þjónar. Þess vegna er rangt að snúast gegn kjarn-

framhald á síðu 2.